# DIARIUM CHRISTIANUM.

Edur

# Dagleg Jdkun af øllum Drottens Dags Verkum, med Samburde Guds tiju Bodorda vid Skøpunarverkid og Miñingu Nafnsins JEsu.

Skrifad og Samsett Af

## Sr. Hallgrijme Peturs Syne Anno 1660.

Editio V.

Selst Alment Jnbunded 7. Fiskum

Þryckt a Hoolum i Hialltadal Af Joone Olafssyne, Anno 1773.

Psalm. 33. v. 6.
Himnarner eru fyrer ORD DROTTens giørder, Og fyrir ANDA hans Muns allur beirra Her.



# Sunnudags Jdkun.

SA Fyrste Dagur Vikunnar, er Sunudagurin, han er sa Fyrste Dagur Skej unar-Verksins. A honum byriadi DRottenn vor alla Hlute af ongvu Efni fyrir Ord sijns Almættis ad skapa med þvi moote sem Moyses greinir, Genes. 1. Cap. J Upphafe skapadi Gud Himin og Jord, etc. Adur en þad ad neckur Dagur vard, þar næst skapadi han Lioosid, og adgreindi Lioosid fra Myrkrunum, og Dagin fra Nootturie, Þetta var

nu þad fyrsta Dags-Verkid DRottens.

Vill mijn Saal, med þvi þu af þessu skapada Liooſe, hefur Not og Gagn haft fra þeim fyrsta Deige þinnar Fæþingar, allt til þessa Tijma, þa giættu ad, hvad þitt Verk a ad vera nu i Dag, þar a mooti. Þetta Verk giorde DRottenn hier til Nytsemdar og Gagns, giordu þvi aptur i Dag þitt Verk til Þienustu og Þocknunar þijnum Gude.
1. Athuga þad, ad Gud skapade Liooſed, og gaf þad Jordunne, og þeim Skiepnum sem skapast skylldu, til Upplijsingar. Þigg þu þessa gooda Giof med Þacklæte og lofa og prijsa Liooſſens Skapara.
2. Minnstu ad fyrst þad var Guds Verk, ad skapa Liooſid, þa sie þar a moote þitt Verk, i Liooſinu ad lifa og framganga so sem þvi vel soomir og hæfir.
Þar eru til fierdeilis Sexslags Lioos.
1. Lioos Natturunnar. 2. Lioos Gud-

doomlegt. 3. Lioos Raadarinnar. 4. Lioos Trwarinnar. 5. Lioos Hugskotsins. 6. Lioos Dijrdarinnar.

1. Lioos Natturlegt lyser Lijkamanum, þad þacka þu Gudi, og misbrwka þad ecki til Synda og Glæpa.

2. Lioos Guddoomlegt er Dijrdinn DROTTins, i hvorri hann bijr, til hvers Liooss ad einginn daudlegur Madur kann ad komast. Geyslinn þessarar Dijrdar er HErrann vor JEsus, Lioos af Lioosi, hañ er vort Lioos, lijsandi oss til eilijfs Lijfs, þetta Lioosid elska þu ollu framar.

3. Lioos Raadarinnar er Guds Ord, þad ydka þu, og eptir þvi gacktu fram, i ollu þijnu Lijferni og Athæfi.

4. Lioos Trwariñar er stadfast Hiartans Traust, sem þu eptir Heilogu Guds Ordi, i Nafni JEsu Christi, setur a þann lifanda Gud, þad nær þu til DRottinns Fyrirheitum, so þad skijni fagurt i goodum Verkum.

6. Lioos Hugskotsins er þijn Skynsemi

 heñar,

hennar neytt, þier og ødrum til Gagns, enn misbrwka hana ecki ødrum til Skada.

6. Lioos Dÿrdarinar er eilijft Lijf; laattu þig af Hiarta eptir þvi langa, og kapp kosta ad nÿta so hvørs Lioosins, sem Gud þier gefur, ad þu um sÿdir niioota megir, þess eilijfa Dÿrdar Lioossins.

J þridia Lagi hygg þu ad, Gud adgreindi Lioosid fraa Myrkrunum, adgreindu einninn Verkinn Lioossins fraa Verkum Myrkranna, Verkinn Lioossins elska þu, og kostgiæf Daglega Herklædum Lioossins ad strijdast. Verkinn Myrkranna hata þu og kasta þeim fraa þier; Tiendu þig vid Lioosid Guds Orda i Lioossins Barna Selskap, so þu verdir med þeim, Lioossinns þess eilijfa Hluttakandi.

J Fioorda Maata Hugleid þu þad min Saal, þa Gud leit a Lioosid sem hann hafdi skapad, þa saa hann þad var gott, þau Ord standa vid hvørt Drottins Dags Verk, og þar þad verdr i einum Stad undanfellt, þa stendur þad tvisvar vid hitt annad, strax

þar

þar epter, Kappkosta þu af ollu Hiarta, i Krapti DRottinns, og fyrer Styrk hans Naadar, ad lifa so i þessu naatturlegu Lioosinu, og haga so þinu Skilnings Lioosi, fyrir Guds Guddoomlegu Lioosi, epter Drottins Orda Lioosi, med skiært lioomandi Truar Lioosi, ad þad verdi fyrir Augum DRottinns gott halldid og metid, so muntu fyrir hanns Naad, þess eilijfa Dyrdarinnar Lioosz nioотandi verda.

Mier virdist so sem þad fyrsta Bodord Drottinns hneigist ad þessu hanns fyrsta Dags Verki, þviad lijka so sem Himin og Jord, þa so fyrst myndud, voru so sem Efni og Materia til allra þar af myndadra Hluta: So er Otti DRottinns og Elska til hanns, Efni og Upphaf allrar Dygdu, og Undirstofn allra goodra Verka, sem befolud verda i ollum hinum Bodordunum, og þvi hefur Lutherus sett fyrst i Utleggingu hvers Bodordsins, þessi Ord: Vier Eigum Ad Ottast Og Elska Gud. Og so sem Lioosid upplysir og fagurt giorir,

allt hvad þad askyn, so giorir sinn Kynning þess sanna Guds, (falin i þessum Ordum, Eg Er Drottinn Gud þinn) eitt stodugt Trwnadar Traust a hann, og oll Godverk sem giord verda eptir Bodordum Drottins, lystileg og fogur, þo þau i sialfu sier veik sieu. En so sem allt er Osynilegt, Ofagurt og Oasialegt i Myrkrinu; So eru an Guds Kynningar, Guds Otta og Elsku og Trwarinnar, oll vor Goodverk Faanyt, Ofogur og Ogilld, hvorsu kostuleg sem þau kunna ad synast.

# Nafnid.

Hessi Dagur verdur i voru Maali kall adur Sunnudagur, og þad eftir Heidinna Manna Vijsu, hvorier jad Soolina, so sem Gud tilbadu, vegna sinnar Fegurdar og kroptugrar Verkunar a Jordunni, hvoria þeir og i voru Gomlu Maali, kolludu Sunnu; Þetta Nafnid maa giefa þier gooda Eptirtekt.

Fyrst vijsar þad þier i Spaadoom Ma-

lachlæ

lachiæ Spaamans, þar verdr vor HErra JEsus kalladur Sool Riettlætisins, Mal.
4. Vid Soolina lijker honum og eirninn hinn heilagi David, Psalm. 19. Þar Samlijking lætum ockur niju Saal i nockrum Portum yfirskoda.

1. Soolinn er su fegursta Skepna sem ber fyrir vorar Sioonir, af ollum skopudum Hlutum. JEsus er sa allra frijdasti og fegursti i sijnum Heilagleika, og skiært skijnandi Riettlæti, i ollum sijnum Daasemdar Verkum, bædi fyrir Guds og riettrwadrar Saalar Augum.

2. Soolinn er so sem Herra og Hofdingi allra Himintunglanna, og giefur þeim ollum Lioos og Liooma af sijnu Byrtu. JEsus er Herra og Hofdingi, allra himneskra Hyrdsveita, og af honum hafa þær alla sijna Prijdi og Fegurd, so sem sijnum Skapara.

3. Soolinn upplijsir, vermir og þijdir Jordina, og giorir hana med sijnum If. Friooffama.

JEsus upplijsir, vermir og þijdir vor Steinblindu og Jskolldu Hiortu, og med Jl heilags Anda giorir hañ þau Frioossom til goodra Verka.

4. Soolarinnar Kraptur nær lijka ofañ i Fylsni Jardarinnar, mykiandi Frostid, sem hindrar Sædisins Grooda, lijfgandi Sædid svo þad uppsprettr og Avoxt færi. JESu Christi Kraptur nær og so ofann undir Fylsni Jardarinnar, mijkiandi alla Ofurkiælu Daudans, eydandi Magt Diøfulsins, og hann lætur alla nidursaada dauda Lijkami, upp aptur rijsa, og þa Gudhræddu eilijflega bloomgast.

5. Soolinn afbrennir, og uppskrælna lætur Hardlendis Grasid, þar einginn Vokvenair ad festast. JEsu Christi Reidi Hiti fortærir um sijdir øllum Ogudlegum Jdrunar og Trwar-vokvalausum Mønnum, sem þverskallast og forherdast mooti Naadar Skyni ÐRottins, og forsmar hanns heilaga Ord og Verdskulldan.

6. Sooliñ er Prijdi Himinsins, Friooſ-
gunar

gunar Kraptur Jardarinnar, og Unadsemd Skepnanna. JEsus er Prijdi Englanna, Blessan Mañaña, Unadsemd Trwadra.

7. Sooliñ burtdrijfur Myrkrid og gledur med sijnum Lioома, þa sem i Myrkrunum Villt fara, og eckert mᴂ skylast fyrir hennar Hita. JEsus burtdrijfur Myrkur Syndanna, gledur þa sem i Mootlætis Myrkrumum reika, med Lioома siña Naadar Fyrirheita, og fyrir hañs Augsyn, kañ eckert ad vera hulid.

8. Soolinn er sett af Gudi, til Teikns og Tijma Adgreiningar. JEsus er ollum Trwudum hid allrawijsasta Teikn og Merki Guds N adar og eilijfrar Sᴂlu hiᴂlpar, allir vorir Lijfs og Dauda Medlætis og Mootlætis Tijmar standa i hañs Valldi.

Sᴂl mijn, hvort siñ sem þu sier þa skopudu Sool skiæra uppreña ad Morgni Dag sins, þa lᴂttu þier til Hugar koma, hvad Herrann þinn JEsus muni i sinni himn-

efFri Prijdi fagur vera þa hann ad Morgni þeß ſijdarſta Dags, kiemur i Skyum Himins.

Fyrir Soolarinnar fogrum Geiſla, lúka Menn ſijnum Hwsgluggum upp, þa verdur Hwſid fagurt, lyſtilegt og ſkiemtilegt. Liuktu upp Gluggum Hiarta þijns mijn Saal fyrir Ordi DRottins, þa munt tu finna og ſia þar wt af eina andlega himneſka Gledi og Skemtan.

J Annann Maata kallaſt þeßi Dagur, DRottins Dagur, og þad vegna þeirra Stoormerkia ſem Drottinn a þeßum Viku Degi giort hefur.

Þad fyrſta var Uppbyriun alls Skopunarverkſins, ſem aadur er ſagt.

Þad añad var Utleidſla Jſraels Lijds wr Egydimorkunni, yfir Ana Jordan, þa ſkiptiſt Vatnid i tvent, fyrir Almætti Drottins ſo Joſua leiddi Foolkid eptir Orkñi og Naadar-Stoolnum, þurrum Footum þar i giegnum, inn i Canaans Land.

Þridia var Jñreidinn JEſu Chriſti i

Borg-

Borgina Jerusalem a Palma Suñudag, so sem Josua a Palma Suñudag, for med Israels Lijd yfir Jordan 1510. Arum þar fyrir.

Fioorda var dyrdarleg Upprisa JEsu Christi fraa Daudum, hvers vegna hann hellst ber þetta Nafn, ad kallast Drottins Dagur.

Fimta var swo mikla Opinberan þeirrar Spaadooms Sioonar hiñs heilaga Johannis, sem hann umskrifar i Opinberingar Bookinni.

Siotta er Kienning Orda DRottins, sem oss verda kiend og opinberud, nu aa hvorium Sunnudegi, og JEsu Christi Lijkama og Bloods Hlutteknine.

DROTTiñ skapadi Himin og Jord, fyrst a einum Suñudegi, JEsus Endurskapadi oss, og giørdist sialfur vort Lijfs, Naadar og Dijrdar Lioos; a sijnum Upprisu Degi, og svo sem einn hiñneskur Josua, og Hertogi Lijfsins, leidir hann oss med sinni Upprisu, þurrann, sliettañ og Hættu-

lausann Veg, gieignum Dauðans Flood til Himnariikis. Og fyrir Kieñingu sijns heilaga Ords, innkiemur hann i vor Hiartans Herbergi, og opinberar oss Leyndardooma Guds Rijkis.

Mijn Saal, minnstu þessara DRottins Stoormerkia, aa þessum Degi, og vert Þacklaat. DRottni er þessi Dagur eignadur, taktu hann ecki fraa honum mijn Saal, rændu ecki DRottinn sijnu. Laattu hann ecki verda hier af þinni Tilstofnan, neinn Diofuls Dag, hvorna þu ecki Diofslinum med illu og Oguðlegu Athæfi, Þrætum, Deilum, Bakmælgi, edur ofmykillri Aastundan holldlegra Hiegoomaskapar Leika, þvi þessi Dagur er DRottins, honum eigum vier ad sijngia og spila i vorum Hiortum, og yfir allt fram, varastu Guds Ord ad forsmaa nie forsooma, þvi þess mun DRottinn þrongleg hefna aa sijnum Dijrdar Degi, sem hier er skamarlega giort aa hanns Þioonustu Degi, þess hliitur Madur med Sorg ad sakna aa Degi Re-

ddinnar, sem hann fyrir Hölldsins F jsnar Sak.r forsoomar a Degi Naadar.nnar. Hölldsins þarfleg befelud og leifd Verk, giordu a þeim Sex Virku Dogum, eñ DRottins Verk giordu, og lat þier þ.u uñhugad vera ad giora a þessum Drott ins Degi. Enn þad kallast Verk DRottins, ad heyra Guds Ord, elska þad og ydka, og odrum kienna, Naunganum naudstoddum ad hiarga, Gud ad lofa og prijsa, og honum Þackir ad giora i Sofnudi DRottins, aňad hvort med Lijkamanum þar staddur (hvad ecki ætti viliandi ad forsoomast) edur med Hiartanu, fyrir Gudi a Himnum, hvad ei helldur maa gleymast, hvar sem Lijkamiñ er staddur, þa muntu faa ad hallda einn eilijfann DRottins Dag, med øllum Guds Bornum i Himnarijkis Dijrd og Gledi.

# JESUS.

Mik

MInn Elskulegi, Blessadi HErra JEsu! þu ert sannarlega sa dasamlegi Verkmeistari þijns himneska Foodurs, i ollu Skopunar-Verkinu, þvi an þijn er eckert giort hvad giort er, þu ert þo ecke ad eins Liooßsins Verk-Meistari, helldur og eirninn þa ertu sialfur þad sanna Lioos, sem upplyser alla Menn, sem koma i þennann Heim, þu medkienner þad sialfur segiandi: Eg er Lioos Heimsins; þu hefur þær fegurstu Liooßsins Tegunder i þvi, ad Liooßid skijn oß innberlega fyrir ollum, og bannar aungvum sijna Byrtu. Je su Christe, minn DRottinn, þu lijser ollum sem þad gyrnast til eilijfs Lijfs, þvi skipar þu og ollum til þijn ad koma, og þar uppa hieckstu fyrir ollum opinnberlega nafinn, med wtbreiddum Fadmi a Krossinum, so aller mættu þiggiar Naadar nioota svo eg sem adrer.

Liooßid er sw fegursta Skiepna. HErra JEsu þu ert sa fegursti og friijdarsti a med al Mannanna Sona, i Riettlæti, Sakleysi,

Almætti, Raad og Myskunsemi. An Lioos sens sijnist einginn Hlutur fagur. An Þijn minn HErra JEsu, er einginn Hlutur fagur allar Holldsins Vellystingar og allt Holld sins Epterlæti og Heimsins, er aan Þijn Ofagurt, Olystelegt og Skadlegt, og oll Goodverk Onijt.

Aller glediast vid Liooseð. Herra Jesu, Þu ert Lioos mijns Hiarta, vid Þig eirn gledst mijn Sorg-bitna Saal og Sampitska.

Myrkrana Ogn og Skielfing, flyr fyrer Lioosenu. Aull su Ogn og Hrædsla, sem meier stendur af mijnum Syndum og Myrkrana Verkum, flijr wr mijnum Huga, Þa eg sæ Þig riettelega siedann, minn goode JEsu, aller meiga Þeir vera Ottalauser, sem Þig sier Naalægann hafa, Þu blessada skijnanda Fagnadar Lioos.

J Lioosenu Þeckia Menn sig og adra. Minn HErra JEsu, Þa eg sie Þig i Þinne beyssku Kvøl og Pijnu, Þa sie eg Þar med minn Speigel, hvad eg munde hafa aatt veg na minna Synda Eilijflega ad lijda. Þar sie

sie eg og lære ad þeckia þinn Himneska Fodur, og hanns heitu Hiartans Elsku til mijn svo sem þu sialfur þar um talar, Joh 3. So elskade Gud Heimenn, ad hann gaf sinn Eingeteen Son, etc.

Men falla sier ecki til Skada, þar þeir eptirfylgia Liosenu. Eingenn fellur sa i eilijfa Glotun, sem þier minn HErra JEsu eptirfylgir, þvi þu giefur þeim ollum eilijft Lijf sem a þig trwa.

J Liosenu rata Menn þann rietta Veg. HErra JEsu, þu ert Vegurenn, Sannleikurenn og Lijfed, Eflaust ratar sa rietta Leid giegnum allar Synder, og i sialfann Daud ann inn i þaa Himnesku Gledi og eilijft Lijf, sem þier eptirfylger.

J Liosenu sia Menn þad adur var hulid. J þier HErra JEsu, siaum vier þaug heitu Myskunar Jdur vors Guds i hver ium þu hefur vitiad vor, svo sem eitt skiært Lioos, upprunnenn af Hædum, Luc. 1. hvor an þijn hefdu ad Eilijfu ollu Mannkyne... hulenn vered, og i þier siaum vier alla ley-

nda

nda Doema Guds Rijkis, um̃ vora Sꝍluhiaup, hvorier adur voru ollum Heime dulder.

Lioosid Þverrar ei nie myrkar, misser og ei hellldur neitt af siñe Byrtu hvorsu morg Lioos sem af Þvi einu kveikiast. Herra Jesu, yfirhvorsu marga sem þu Myrkunar Þig, þa lijdur Þo Þijn Myrkun og Giæsska ongva Skerding, og hvad margar Skepnur sem þu forsorgar, þa eru Þijn Audæfe ecki ad miñe, Þvi þar er noogleg Nad hiaa Þier, og Nægd Fagnedarens, til Þinnar hægre Handar. Miñ Herra JEsu, lattu mig Þijna vesolu og alls Þurfande Skiepnu, faa og odlast Not, Gagn og Glede, af ollum Þessum Þijnum Dyrdarlegum, fullkomnum himneskum Lioosf Tegundum, hier stundlega mier til Leidriettingar og Huggunar, annars Heims eilijflega mier til Gledi eñ hier til Dijrdar.

O Drotteñ JEsu, Þu adgreinder Myrkred fraa Lioosenu i Skopuneñe. Eins giorder þu i Þiñe Kieñingu, þad mær siaa Þijnu

þijnu Samtale vid Nicodemum, þar þu seiger, ad þeir sem illa giora, hate Liooſed, hafandi Myrkur Hræſneñar ſo ſem Skylu ſiña Illverka. Eñ þeir ſem Sañleikañ giøra, koma til Liooſſens, þvi þeir ſkamaſt ſijn ecki fyrer ſijn Verk, med þvi þo ad noꝛckud meigi a þeim vera breſtott, boged eda hlyckiott, eda i nockru Oſullkomlegt, eda Oſagurt, þa bæteſt þad allt, rietteſt, fegraſt og forbetraſt af Lioóma þijns Riettlætis og þiñar Forþienuſtu.

Miñ HErra JEſu! Geſdu mier bæde i Lærdoome og Liſnade ad geta ſkynſamlega adgreint Liooſed fra Myrkrinnu, ſvo eg ſeige ecke þad gooda Vont, nie þad Vonda gott, og ad eg aflegge Verkiñ Myrkraña, eñ iklædeſt Herklædum Liooſſens. Þu adſkilder HErra JEſu Dageñ fra Noott uñi, ſo Madurin ſkylldi a Deigenum viña, og af Dagsviñuñi þreyttur, a Noott eñi hvijlaſt. Da ſamleg eru oll þijn Verk, oll eru þau Myſkun og Sañleike. Lof, Þacker og Heidur ſie þier, fyrir alla þijna

Giærd=

Giædſkulega Vorkunſemi og Myſkunſam-
lega Fyrerhyggiu; Miñ DRotteñ JEſu;
Eg veit ad ſvo ſem ſa fyrſti Dagur haf-
de bæde Morgun og Kvolld, og eptir þiñe
Skyckun kom Myrkred aptur i ſtadeñ Li-
voſſins. So verdur og Dagur miñar Æfe,
ſitt Kvolld ad hafa uñ ſijder. O! Herra
Jeſu, lattu þa Umbreyting Lioſſens mijns
Natturlegs til Daudans Myrkurs ſkie
epter þijnu Ordi, og epter þiñe Skyckun.
Vardveittu mig fyrer illum og ſkamarleg-
um, ok haſtarlegum, oforvarandis Dauda.

Þu lietſt añañ og hiñ þridia Dageñ
aptur ſæra þad fagra Lioos yfir Verolld-
ena, eñ at þeim fioorda Deigenum vard
þad eñ fullkomnara, þa bæde lijſte Sooleñ,
Tungled og Stiornurnar. Fagurt er þad
Natturlega Liooſed, þo hlijtur þad i Da-
udanum ad Forniyrkvaſt. Fagurt er Li-
ooſed Skynſemeñar, þo verdur þad ad fol
na. Lyſtilegt er Liooſid Augnaña, þo ver-
dur þad ad forblindaſt: Jaa, allt ſlockuar
þad wt i Daudanum. Þad þriggia
Daga

Daga Liooſed hlytur ad þverra, enn þad fivorda Dags Liooſed koomar ad eilijfu, þaa þu minn HErra JEſu verdur vort eilijft lioomanda Lioos, og Sool i Uppriſuñe vorre, og ſijdañ til Eilijfdar, þar lioema þeir Riettlaatu i kriingum þig, ſvo ſem lijſandi Stiørnur ad eilijfu.

J þeirre Sæiu Von, laattu mig minn HErra JEſu epter Orde þijnu gladann i Fride fara. Þu ſaaſt HErra JEſu, ad Liooſid ſem þu hafder ſkapad var gott. Allijttu nu þad veika Trwar Lioos Korned ſem þu hefur ſiaalfur fyrir þinn heilaga Anda, i mijnu Hiarta tendrad, ſvo ad þad verde af þier gott halldid. Giørdu Skilnings og Skynſemdar Liooſed mitt gott fyrir Augum þijns Himneſka Fødurs, med þiñe Medalgaungu, og bleſſa þu mier Dag ſins, Lioosſens og Soolareñar Lioos og Liooma, og leid mig um̃ ſijder til þeſs eilijfa gooda Liooſſens, miñ goode Herra JEſu, AMEN!

# Maanudags Jdkun.

SA Annar Dagur Vikunnar, er Minnisdagurinn, at honum var þad Verkid DROttens i Skopuninni, ad giera Festing Himensins, med hvorre hann Adskilnad giørde, at millum Vatnanna, þeirra sem under Himnenum eru, og hinna sem eru yfir Festinguñe.

HAR a mooti minn Saal, skalltu i Dag vera þitt Verk. Fyrst, ad þu aſiaaer og lijter Himenenn upp yfir þier, hvar ad er eitt fagurt og forprijdelegt DROttens Handaverk. Eg vil allijta Himenenn, þad Verked þinna Handa, sagde David, Psalm. 8. Hanns Dæme eigum vid ad fylgia. DROtten sialfur skipade Abrahame ad lijta upp til Himens, þa hann fieck Fyrerheited, um Margfiolda sijns Sædis. Lijttu og lika til Himens, min Saal, og lærdu þann sem hann hefur skipad ad Ottast, so sem Allmattugann HErra, og elska sem einn goodann Fodur,

hvør

hvør ed eitt soddann fagurt Tialld vtbreid-
de, yfir þijnu Hofde, og varnar þar med
þeim efre Votnunum yfir þig ad falla so
þau meiga ecke dreckia þier, helldur skamt-
ar hann Goodgiarnlega ofann til þijn,
Himensins Regned, sem þier og ollum
Skiepnum til Nota og Þarfenda, vøkvar
og frioofgar Jordena, og þacka þu so
Milldum og Goodgiornum Forsorgara.
Þar med þaa gled þig i þijnu Hiarta, af
Tilhugsun þess eilijfa Lijfsins, þvíad hafe
Gud so forprijdelega Tialldad yfir þijnu
Hofde i þessu þijnu Eymdafulla og auma
Lijfe sem kallast maa eitt Þrælbooms
Hreyse, hvad miku Prijdelegar mun hañ
þaa Tiallda bæde yfer þier og kringum
þig, i þeirre eilijfu Dijrdenne, sem med
riettu maa kallast JEsu Christi Brwdar-
Hws? Siaa þu og Gaumgiæf, miin
Saal, hvad fagurt Tialld DRottenn
breider yfir þig, þier bæde til Gagns og
Virdingar. Breid þu þar aa moote und
er hann þijna Hiartans audmiwka Hlijd-
ne,

Hlijdne og Audsveipne, so sem Israels Menn breiddu siin Klæde under Christum, honum til Æru og Pockunar. Giæt og ad, hvad þarsiegan Vökva DRottiñ sender hier af Himnum ofann: Send þu honum aptur Ilmandi Vökva þinna heitra Idrunar Tára, audmiwkrar Bænar, og Hiartannlegrar Packargiördar.

Par nærst athuga þu, miin Saal, ad DRottinn adskildi þau efre Vötninn frá þeim nedri, og setti eina Ofsanlega Festing þar i midli. J Heilagri Ritningu verdur Sorginni samlijkt vid Vatnid, so sem David segir i Psalm. 69. Vötninn taka inn ad renna, ad minni Saalu.

Tvennslags Sorg kann hier til ad falla, ein Lijkamleg, sem merkiast mā fyrir þau lægri Vötninn, hvorium DRottinn hefur sett Takmark, yfir hvört þau kunna ecki ad komast. Þessari þinni Lijkamlegri Sorg, settu Takmark i Guds Ordi, og lattu hana eck: uudirganga. Verid ecki Hugsiwker, sagdi HErrann vor JEsus

hia Matthæum. Þa David sorgadi Raan sinna Kvenna og allra sinna Eigna, og hann med ollum siinum Monnum græt med beiskum Hug, þa stendur, hann hafi styrkst i siinum Gudi, þad var eitt gott Takmark, og Obifannlegt Firmament. Þess giættu vel mijn Saal.

Onnur þijn Umsorgun er Andleg, hun lijkist vid Votninn þau efri, þvi hun geingur hærra. Yfir allt fram̃ attu fyrir þvi Andlega Um̃hyggiu ad hafa, og þijna Andlega Eymd og Saalar Neyd skylldir þu ætijd sorga, þvi sælir eru þeir sem Harma, enn undir þessa þijna Sorg, settu Firmament og Festingu JEsu Christi Nadar Fyrirheita, þvi þeir sem harma, skulu hugg adir verda. Matth. 5. Og i Drottni hofum vier Riettlæti og Huggun, þvi hvor sem trwir og verdur skijrdur, sa skal hoolpinn verda. Laattu ecki helldur Umsorgun þinnar eilijfrar Velferdar falla a Jordina, og snwast upp i Umsorgun fyrir Tijmannlegri Velgeingni: Oþorf Bwksorg er

oss

oss af Christo bonnud. Hanns Ord sku-
lu vera Fest ng a milli þeirrar Andlegu og
Lijkamlegu Umsorgunar, þvi so segir hañ:
Leitid fyrst Guds Rijkis, og hanns Rett-
lætis, Math. 6.

J Þridia Lagi, Saal mijn, allijttu Al-
mætti DRottinns, sem so helldur þoi þwn-
ga Vatni i Loptinu, hvad skylldi hanns þvi-
lijku Almætti Omogulegt vera? Skylldi
hann ecki kuña þijnu Hiarta vid sig ad hall-
da, og leida þinn Huga til Himnarijkis og
Himneskra Hluta Eptirlaungunar, þo þijn
Nattura sie bædi þwng og treg? Þar fyr-
ir, gled þig i hanns Almætti, enn Ottast þo
fyrir hanns Makt og Velldi.

Mier vyrdist enn nu, sem ad þessu Verk
inu megi hneigiast þad annad og Attunda
Bodord DROTTinns, þviad so sem
DRottinn setti þau efri Votniñ langtum
hærra enn þau sem a Jordunni eru, so hef-
ur hann og sett Heilagt Nafn sitt, i hina
hærstu Tign og Virding, þvi þo hier a
Jordunni eigi þeir Ypparlegu Herrar, og

allir Yfirbodarar sijna Virding og Heid-
ur ad hafa, þa skal þo, og æ, Nafnid Dr-
ottinns, umfram̃ allt, og öllu framar, ad
virdast, heidrast og Hæitignast, og med þvi
ad Gud er siælfur Sannleikurinn, og
hanns Nafn æ, og skal, af oss, og hiæ oss
heidrast og virdast, þa eigum vier Sannlei-
kans Næunganum ad un̄a, han̄ ad styrk-
ia, honum fram̃ ad fylgia, og æ milli þeir-
rar Virdingar, sem Guds Nafni er skylldt
ad veita, og þeirrar sem Mönnunum hæfir,
æ jafnann þetta Firmament og Festing ad
standa. Framar ber ad hlijda Gudi enn
Mönnum, Act. 5.

# Nafnid.

MAnar þessi nefnist vor æ medal
Mæanadagur, hafandi sitt Nafn
af Tunglinu. Þad kann og ad ge-
fa Þarfsamlega Eptirtekt. Athugum þar
fyrir mijn Sæl, nockrar þær sierlegustu
Tunglsins Tegundir.

1. Tungl'd hefur sijna Byrtu af Sool-unni, (so sem þeir lærdu meina) annars er þad Byrtulaust. Þu byriar nu i Dag (sem er þinn fyrsti Ervidis Dagur i Vik-unni) þijn Naudsynia Verk, vita skalltu þad vijst, ad so sem Tunglid er halldid Lioos-laust ann Soolarinnar yfirskijnandi Byr-tu, So eru øll þijn Verk og Idia, Gudi Obeck og med øllu Blessunarlaus, ann JEsu Christi yfirskijnandi Naadar og Blessunar, þvi so segir hann sialfur: ann mijn faid þier einkis Goods orkad, minstu þvi ad byria og giøra oll þijn Verk, i Nafni JEsu, i riettri Trw med Bæn og Packlæti, eptir Guds Ordi, fylg þvi og giør þad sem Guds Ord bijdur og ler-ir, enn varastu allt hvad hann bannar ... erki lofar, hvørsu sem þad synist ... og gyrnilegt. Lat øll þin Verk fram-koma af Trwnni, og ... i Kiærleikanum til Naungans.

2. Tunglid er Ostødugt, þad ymist ver-dur mijnkar, So er oll Jardnesk Gle-

 di,

di, og Hollðsins Eptirlæti, Ostoðugt og fallvallt. Varastu þvi að festa Gyrnð þijns Hiarta við so vallt skynandi Glis Hollðsins og Heimsins. J Opinnberingar Book St. Johannis, lijkist Christni Guðs við Kvinnu þa sem Tunglið hafði undir sijnum Footum, þvi einn og sierhver Christinn Maður a fallvallta forgengilega Hluti liitils að virða hia þessari Himneſku Dijrð og Sælu. Eitt er Nauðsynlegt sagði JEsus, þa Maria sat við hanns Fætur, og hlijddi hanns Kenningu.

3. Tunglið gengur allra Himintwnglaña skiootast. Minnstu hvað skiott Manns- sins Æfistundir lijða, svo þær eru opt forri at Enda komnar, enn sialfann varir, forsooma þvi eckı Tijmann Gott að giora, so Oforsioon... dur verði Timinn, aptur við Gooðu að taka. Ef þu i nockru forsier þig eður syndgar, hvað optar skedur enn vera ætti, (þvi miður!) þa flijt þu þier sem skiotast, a medann Tiimi Naaðarinnar yfirstendur, fyrir sanna Jðran, rietta Trw

og alvarlegt Apturhvarf fraa Syndiñi, ad naa aptur Guds Naad, fra hvorri þu varst vikinn (lijka sem Tunglid med hostugu Hlaupi, so sem flijtir sier til þess Stadar aftur sem þad fraa veik), so þu faair Fyrirgefning Syndanna, ædur enn sa Dagurinn upprennur, sem eingrar Fyrirgefningar er aa Von.

4. Tunglid er vijst fagurt i sijnu fullu Skyni, þo missir þad sijna Byrtu fyrir Soolunni, þa hun upprennur. Fegurer Luckann Veralldarinnar, og Eptirlætid Holldsins; Enn hvad er hun ad reikna hiaa Himneskri Dijrd og Sælu? Riettlæti goodra Verka er fagurt i Mannaña Augti, enn Riettlæti JEsu Christi, skijn þo eñ skiærara fyrir Guds Augliti. Þad var su fegursta Kvinnunnar Prijdi i St. Johannis Opinberingum, ad hun var iklædd Soolunni. Sa er þvi fegursta Brwdkaups Klædi priiddur, sem er iklæddur þvi alskijnandi JEsu Christi Riettlæti.

5. Allar Skepnur fagna meir Soolariñ ar,

ar Byrtu, enn Tunglsins Lioomа, þvi þad skiin dausara.

Uña skylldir þu Saala miin mykle framar, þeirri fagurt skijnandi Byrtu eilijfrar Sælu, enn Daufstkijnandi Glise Heimsins fallvalltrar Velgengni. Ad glediast i Nærd DRottins, er miklum Mun æski legra enn af Veralldlegri Skemtan ad kiæt ast. Gled þig þvi, Saal miin, med Jomfrw Mariu Anda, i Gudi Heilsugiafara þiinum, Luc. 1.

6. Tunglid verkar mikid a Jordunni nidri, þo hefur þad sinn Samastad a Himnum uppi. Ervida verdur þu og rækia þitt Embætti, og hafa Christilega Umhyggiu fyrir þier og þijnum, a medann þu ert a Jordunni, þad er þijn Skyllda, eñ þo halld þu þig hier so sem Giest og Framandi, enn þitt rietta Heimili hafdu og hallt a Himnum, þar eigi þitt Hiarta, Girnd og Hugrenningar heima. Einn Christinn Madur lijr og þreytir sinn Lijkama hier a Jordunni, enn hvijlir Hug og Hiarta sitt a

Himn=

Himnum, glediandi sig jafnann i Von ept irkomandi Sælu. Med þessum Hugreñingum, kañtu þitt Ervidi liettbærara ad giora.

# JESUS.

MJñ HErra JEsu, þu ert sa blessadi og Almaattugi Festingarhiminsins Verk-Meistari, a samt med þijnum himneska Fodur og heilögum Anda, þad sijna mier bædi þijn eig inn Ord og Verk, þitt Ord i þessu Verkinu var, Fiat; Verdi ein Festing. Sama var þitt Ord vid þa Canversku Kvinnu, Matth. 15. Þa þu sagdir, Fiat; Verdi þier svo sem þu villt. Þijn eiginn Verk sijna mier þad og eirninn, þvi þa þu ferdast med þijnum Lærisveinum, yfir uñ Vatnid Genezareth, i Land þeirra Gadarenita, þa sloo yfir einum hostugum Stormvindi undann Festingar Himninum, sa ed Vatnid so okyrrdi og uppæsti, ad þad villdi yfirgiefa sitt Takmark, og slaa iñ i Skipid, medañ þu svafst, eñ strax þu vaknadir, er

hastadir med þijnu Ordi at þad hvorutveggia, þa hlijddu þessar Hofud-Skepnur þier furdannlega, svo þar giordi strax mikid Logn, lijka sem bædi Vindur og Vatn bligdudust og fyrirydi sig, ad þau so diarflega hefdi geingid nærri sijnum Skapara, Matth. 8. Hvar fyrir minn HErra Jesu, þu ert eflaust sa sami DRottinn, sem hinn heilagi David um syngur og segir: DRottinn, Himnarnir eru þijn Handa-Verk, Psal. 102. Og i ödrum Stad; Hann drottnar yfir Siafarins Ædigangi; Ja, HErra JEsu, þu hefur Sioonum eitt Takmark sett, yfir hvort hañ kann ecki ad komast. O! HErra JEsu, nidurþagga þu fyrir mier, alla ageysandi Freistingar Storma, og settu siálfur eitt Takmark öllum mijnum addyniandi Mootgangs og Hormungar Votnum, og kom þu þvi med þijnu Almætti so til Vegar, ad allar mijnar Freistingar fai goodann Enda, og allt mitt Mootlæti þieni mier til hinns besta. Minn HErra

JEsu,

JEſu, ſo ſem þu ert Feſtingar Himenſins Verk-Meiſtari, ſo ertu ſiaalfur Firmamentum, þad er ein obifannleg Stadfeſta minnar eilijfrar Fridþægingar og Sœttargiordar vid Almattugañ Gud, þiñ him neſka Fodur, hvar ed i þier er vid mig og alla trwada Menn i Heiminum, eilijfleza forlijktur, þu ert ſœ faſti og obrœrannlegi Grundvollur minnar Saaluhiaalpar, þeſs gled eg mig af Hiarta. J voru Maali kollum vier þennañ Himin: Feſting, ſomu Nafni kollum vier og eirniñ Vijgi, Slot og ſterka Kaſtala, þar Menn meiga obult ir vera og veriaſt, fyrir Ahlaupi Ovinaña. HErra JEſu, þu ert þad oruggaſta Vijgi, faſta Slot, Feſting og Kaſtali, og vort beſta Athvarf, ſvo nefnir þig hinn heilagi David, Pſal. 91. Ovinnannleg Borg er vor Gud, ſegir þijn heilog Chriſtne, bœdi uñ þig og þinn himneſka Fodur, og heilagann Anda. Ohultur er eg, fyrir ollum miinum Ovinum, ſynilegum og oſynilegum, medañ eg fœ ad hijraſt undir þeſſu

allra tryggvasta og traustasta Festingar Vijgi. Minn HErra JEsu vertu mier eitt oruggt Vijgi, so eg meigi ætijd þangad Hælis leita, og eg megi her Ohræddur vera fyrir ollum Ahlaupum Diofulsins, og Umsaaturs Vielum, miña Mootstodu Manna.

J nockrum Tungumaalum verdur þessi Himinsins Festing kollud Ausspanning, Expansum edur Utþensla. Herra JEsu, þu þandir þiinar baadar wtteigdar og tog adar Hendur, og alla þijna blessada Limi aa Krossinum; þa maatti kallast, ad þu værir sialfur ordinn eitt Expansum, edur Utþensla, edur so sem wtþanid Firmament. Æ! mig fysir ad skoda gior minn blessadt Herra, i þessa þijns ægiæta Handaverks Samlijkingu.

1. Eg aa wtþandi Festingar Himin, hann lar Votnunum þeim efri ad falla yfir Jordina heñi til Skada. HErra JEsu, þiñ wtþaninn Kross-Fadmur, hamlar saññarlega Guds Reidi-Flodi, yfir mig aumañ

Synd-

Syndara ad falla, þess er eg fullviss.

2. Af Festingar Himninum wtbreidd um, eru margar fagrar leyptrandi og liomandi Stiornur. Þeir viisu Stiornumeistarar segia, ad þær hafi kroptuga Verkan a Jordunni. Drottinn minn JEsu, a þiinum wtteigdum Lijkama voru morg Saar. Þeir gömlu reikna þaug hafi verid hier um 5240. Æ! hvad fagurt lioma þau oll fyrir Augum minnar Saalar? Allar Himinsins lifandi Stiornur, kunna ecki med allri sinni Prijdi, so mitt Hiarta ad gledia, sem eitt af þiinum minnstu Piislar Saarum.

O! Herra JEsu, unn þu mier ad glediast af Benium þiinum, alla mijna Lijfs Tijd; Jaa, i minni Dauda Tijd, og ad eilijfu. Ef ad Stiornurnar krapta nockru a Jordunni, þa krapta JEsu Christi Saar þo Þusundfallt meira. S. Thomas mau bera þar Vitni um, þa hann Trwardaudur, took a Piislar Saara Aurum um JEsu, vard hann so lifandi i Trw, An

da og Ordi, ad hann med einum brennan di Huga, giordi hina merkilegustu Jatn ing og sagdi: DRottinn minn, og Gud minn, Joh. 20. Ja, minn Herra JEsu, þyn heilog Pijslar Saar, verkudu ei ad eins ofanfyrir sig, so sem Stiornurnar, helldur verkudu þau og einninn uppfyrir sig til Himnanna, edur á Himnum, þvi. þau blijdka og Fridstilla Almattugann Gud, vid oss auma syndugu Menn, og wtvega oss so eilijfa Saattargiord hiá honum.

3. Undann Festingar Himninum wtbreiddum, skamtast ollum Skepnum Regnid, sem stillir þeirra Þorsta, og vokvar og frioofgar Jordina. DRottinn minn JEsú, wt af þijnum blessada wtteigda og togada Li.kama, flijtur ofann til mijn þad heilsusamasta Svala Vatn þijns blessada Bloods, sem wtslockur allann Þorsta minn ar þreittrar Saalar, þvi þad hreinsar mig af allri Synd, 1. Joh. 1. Þad er sa Vokvinn sem Frioosamt giorir Hiarta mitt

til

til goodra Verka Aſtundunar, þvi þad hr-
einſar ni na Samvitſku af daudlegum
Verkum, til ad þioona Gudi lifanda.
4. Af Feſtingar Himninum ſtendur og
Vindblærinn, Ofurhitanum til Stilling
ar, og Varmiñ Ofurkulldanum til Myk
ingar. Minn HErra JEſu, þu med þijn
um alſærdum wtteigdum Lykama a Kroſs
inum wtvegadir mier hiaa þijnum himn
eſka Fodur, Jaa þu ſendir mier ſiaalfur,
þiñ heilaga Anda, hvor med ſijnum Gud
doomlegum Innblæſtri hugſvalar mier i
Ofurhita Freiſtinga og Eymda; Og med
Varma ſiñar Guddoomlegrar Aſtar mijk
ir alla Orvæntingar Kiælu Hiarta mijns,
og giorir mig, aadur Jsfalldañ, ef ei heitañ,
þa þo varmann i þinni Elſku, Bæn og Hi-
artañlegri Þackargiord og Naungans
Kiærleika. ÓDrottiñ miñ JEſu; Laattu
mig nu i Dag og alla Tijma hafa Not, Gl-
edi og Gagn af ollum þeſsum þijnum Vel-
giorningum, ſvo eg undir þijnum wtbreidd
um Bleſſunar Fadmi vaki, ſofi, lifi og
deye

deye, Amen.

# Pridiudags Idkun.

Nu er hinn pridie Dagur Vikunnar
Hann er Pridiudagurinn, a henum
adskildi Gud Vøtnin og
Þurrlendid, Siooin og Landid, so
siaist mætti þurr Jørd; Þar eptir
plantadi hann a Jørdunni med sijnu
Almættis Ordi, allrahanda Grøs
og Jurtir, og allshaattud bloomg-
ud Trie, etc.

Nu M þetta aatti nu mijn Saal ad
þeinkia, og giæta ad vandlega hv-
ad þitt Verk a nu þar a mooti
ad vera, sem er þetta hellst og fyrst, ad þacka
þeim goodgiarnasta Gudi, sem so hefur
øllu vijslega, volldugiega og þarfsamlega
nidurskickad, og til Stadar komid. Alldrei
skylldi Madurinn so sijnum Fæti a Jord
stijga, og alldrei so þvo sig i Vatninu, eda
svala so þar a sijnum Þorsta, og alldrei
hell-

hellדur ſo Gros edur grænkadann Skoog lijta', ad þeſſara allra Hluta milldur Giafare, og Almættugur Skapare, hafe ecke ſijna ſkylldugu Þock þar fyrer; enn Gud nade vora Gleimſku, og læte oß ecke giallda vors Oþacklætis og Athugaleyſis.

J ödru lage, mijn Saal, minstu a, ad Syndeñe verdr i heilagre Skrift, ſamlikt vid Vatned. Vær inndreckum daglega Ranglæted ſem annad Vatn, ſeiger hiñ heilage Job i 15. Cap. Lijka ſo ſem Vatned hulde Jördena, ſo hvörge mætte neitt Þurrlende ſiaſt, edur enn DRottens þad hvört fra ödru ſkylde: So er ſu Samvitſka, ſem kaſtinn liggur i Syndunum, lijka ſem yfirflotid Land af Vatne; Saalenn er þar ſocken nidur, ſo ſem i eitt diupt Haf, hun ſier þar ecke neitt Þurrlende Huggun ar nie Hiaalprædis, ad feſta Foot ſiins Trwnadar Trauſts a, hellדur eñ Dwfañ i Nooa Floode, Geneſ. 7. Þvi verdur hun um ſijder, ad falla vr Floode Syndanna, i Flood Fordæmingarennar og forganga

gaunga so eiliiflega.

Minn Saal, sia þu nu so til fyrer Herr ans Adstod, ad þu þessu þiinu Synda Floodi veitir i burt af Landi Samvitsku þinnar, fyrir heita Hiartans Jdran, og kalla þu jafnann med David, Psal. 130. burt wr Diupinu til DRottins; Og bid med S. Petri, ad HErrann JEsus laati þig ecki i Bylgiur Orvæntingarinnar og Forðæmingarinnar n'dursockva, skyndstu giætilega eptir þijnu Purrlendi i Fyrir heitum DRottins, og festu Foot þinnar Trwar þar aa.

Pad annad Verkid, sem DRottiñ a þessum Degi giørdi, var ad frioofga Jor dina, med allra handa Grosum, Jurtum, Bloomstrum, og adskiliannlegum havoxn um og Avaxtarsomum Triaam.

Par sier þu eina millda Hond og forsorg unarsamt Fodurs Hiarta þess lifanda Gu ds, sa ed bædi Monum og Fenadi fyrir fram tilbioo, bædi Fædi og Foodur, og Fuglunum Hæli og Athvarf i þeim þyck-

bloom=

bloomgudu Vidargreinum. Lærdu þar af ad styrkia þijna veiku Trw, og wtibyrg ia alla Onytiu Umsorg og Vijlshætt fyr ir þijnu daglegu Braudi og Næring; Þvi ad hafi DRottinn Onn alid fyrir þeim Skepnum, sem ecki voru þa enn skapadar svo Fenadi og Fuglum sem Manneskiuñi, hvad miklu meir mun hann þier nu bædi skepudum, endurleystum og helgudum, nædarsamlega forsorga, fyrir ollu þvi, sem þijn Þorf wtheimtir? Giæt ad hvad JEsus hier um talar i Gudspiallinu, Matth. 6.

Hier framar giæt ad mijn Sæl, hver su DRottinn þinn Skapari, hefur i þvi heilaga Skyrnar Vatni og Aflausninni veitt af Hiarta þijnu og Samvitsku, Vat ni Syndaña, og synt þier Þurrlendi hiart añlegrar Huggunar, i sijnu H. Ordi og Sacramente Jesu Christi Lijkama og Bl-oods. Lattu nu þar fyrir Hiarta þitt ecki óshar dna nie uppskrælna i Hyrduleysi og Omennsku, keppstu helldur vid ad færa fr-

am ylmandi Jurtir Bæna og Þacklætis, fegur Bloomstur Dygda og Mannkosta, og þarfleg Gros goodra Verka, og stiai so til fyrir Hiaalp DRottins, ad þad haavax na Bloomstur Tried H. Þolinnmædi, meigi grænkast i Alldingardi þijns Hiarta, hvar til þu bid Gud ad giefa þier Raad H. Anda.

Enn virdist mier sem þetta Dagsverkid DRottins, hafi og sijna Samlijking, vid þad þridia Bodordid, þvi so sem Gud adgreindi Votnin og Þurrlendid hvort fraa ødru, so vill hann sijna Þioonustugiord ad greinda hafa, fraa annari lijkamlegri Þioonustu, og þvi fyrirbaud hann streingilega Gydingum alla lijkamlega Þioonustu, og Þrælkunar Verk aa sijnum Hvijldar Døgum.

J ødru lage merk, ad soo sem þad fyrsta Saad edur Sæde, til allra Grasa, Jurta, Bloomstra og bloomgadra Eika, var alleinasta Ord DRottens, so ad epter þvi upprann, spratt og bloomgadest þad allt sam ann

ann. Eins liika er nu þad Orded Guds, sem þier a øllum Hvildar og Helgedøgum verdur kiendt, eda þu Les og idkar, þad rietta lifande Sæde, af hvøriu allra goodra Verka, Dygda og Mañkosta, og heilagrar Þolennmæde Bloomstur Uppspretta.; Jaa, fyrir þad verdur þu sialfur gott Trie sem færer goodann Avøxt, og eitt Hveite-Korn, hvøriu iñ verdur safnad, i Himneska Diirdar Korn-Hlødu DRottins, og af sialfum Gude vel hreinsadur Vijn-Kvistur, a JEsu Christo rietta Blessada Vijntrie Grodursettur, og færer so mikenn Avøxt. Liadu þar fyrer, jaa, giefdu þijnum DRottne Akurlende Hiarta þijns, a hvørium Tijma, sem fyrer þier verdur kiennt edur Lesed Guds Ord med bestu Adgiætne og Eptertekt, so hann meige þess blessada Sædi þar inn saa, þess muntu sialfur bædi Stundlega og Eilijflega hin bestu Not hafa.

# Nafnid.

Vier

Hier kollum þennann Dag i voru Moodur Maali Pridiadag, þvi hann er saa Pridie i Vikunni, ad-ur var hann kalladur Tijrs Dagur, eptir einu Skurdgodi Heidingia, svo sem hinir adrir eptirfylgiandi Dagarnir baaru þvi-lijk Skurdgoda Vidurnefni, hvar Christ-num Monnum vor aa medal um̃ sijdir leid-dust. Giæfi Gud ad þeirra Heidinglega Lijferni hefdi oss eiñig leidst, og hvorn Dag aflagst, þetta Nafnid vilium vid Saal mijn ecki Onijta.

J fyrstu minnir þad þig aa, mijn Saal, Vidurkenningu þiñar Christilegrar Trw-ar. Þessi Dagur er einn i Vikunni, fyr-ir sig, og hefur sitt Nafn af Þrennu i Tol-unni. Einn er Gud i sinni eilijfri Veru, þo eru Þriaar adgreinanlegar Persoonur i þeirri eilijfu Verunni, enn er þo alleinasta einn Gud.

Su fyrsta Persoonan er Gud Fadir, hañ er ecki skapadur, getinn, fæddur, nie af nei-num fram̃farandi, helldur er hann aan alls

Upp-

Uppḣafs og Enda, fraa allri Eilifd til allrar Eilijfdar.

Su önnur Persoonan er Guds Sonur, hann er af Fodurnum ecki skapadur nie frammgangandi, helldur fyrir alla Eilijfd G.tinn og Fæddur, med einum Oyfirgrijp anniegum Dasemdar Hætti, Gud af Gudi, jaa, sannur Gud af sönnum Gudi.

Su Pridia Persoonan er Gud Heilagr Andi, ecki skapadur, Getinn nie Fæddur, helldur jafnt bædi af Fodur og Syni framfarandi, fraa Eilijfd t.l Eilijfdar, og þo ad þriaar sieu Persoonur Guddoomsins, ad öllu jafnar, so þar finnst ei hiaa þeim neitt Elldra nie yngra, Hærra nie Lægra, Meira nie minna, þa samt er þo ecki nema eiñ einasti Gud og DRottinn.

Þriu eru Verk DRottens, fyrer hvor vier plegum Persoonur Guddoomsins, so sem med einu Kienneteikne ad adgreina, þar vier sitt Verked hvørre Persoonunne tilleggium, þad fyrsta er Skopunen, þviad Gud Fader skapade Himen og Jord, fyrer

sitt

sitt Ord. Þad añad er Endurlausnar Verked, þvi ad Sonur Guds, HErrann JEsus giørdest Madur, og Endurleyste oss fra eilijfum Dauda, med sijnu Heilaga Bloode. Þridia er Helguneñ, þvi ad Heilagur Ande helgar oss, fyrer Guds Ord og Sacramenteñ: Þo eru þesse Verkenn øllum Persoonunum Sameigenleg med þvi þær allar hafa vered Samverkande i sierhvøriu þessu Verke.

Þriu eru þau Verkenn Guds, sem tilheyra sitt hvørre Persoonunne Guddoomsins sier i Lage, enn ecke øllum jafnt til samans, þau eru þesse: Faderenn fæder af sier Sonenn, Sonurenn verdur ad Fodurnum fæddur, i Heimenn sendur, verdur Madur, lijdur Pijnu og Dauda; Heilagur Andi framgengur af Fodur og Syni, og byrt'st i Dwfu Lijking yfir Christo, Matth. 3. Og i Elldlegum Twngum yfir Postulunum, Act. 2. Þessare Adgreining skalltu einfalldlega behallda, og bliifa þar vid, eptir þvi sem þad auglijsist i Guds

Ordi,

Ordi, framar lættu ecki Hollds nie Blods Heimuglega Forvitni eptirgrenslast Guds-legum Leyndardoomi.

Prijr eru Motttinns Velgiorningar Manninum Naudsynlegastir i Heimi pessum.

1 Goodur Sæalusorgari. 2. Gud hrædt og Riettvijst Yfirvalld. 3. Good Eckta Persoona. Hafir þu þessar goodu Sæfur odlast, þa þacka þær Gudi og far vel med, so Gud svipti þig ecki, vegna þijns Oþacklætis, so goodum Sæfum.

Prijr ægiætir Hlutir veitast þier af Gudi, a medann þu lifir.

1. Heilbrygdin. 2. Good Samvitska. 3. Goodur Fridur. Þetta þackadu jafnan þijnum Gudi, skada þu ecki viliandi þijna Heilsu, þvi hun er vandfeinginn aptur, varadu vel Samvitsku þijna, þvi hun er vidkvæmari enn Siaaalldur Augans. Raska þu ecki goodum Fridi fyrir lijtinn Mun, þvi hann er dijrmætari enn oll Heimsins Audæfi.

Priaar Andlegar Dygdir elska þu: 1. Trwna, med henni medtekur þu Drottins Velgiorninga, fyrir hana þocknast þu, og oll þijn Goodverk Gudi. 2. Vonina, med hverri þu bijdur eptir þvi sem þu trwir, og veitst ad ei mun bregdast, þad Gud hefur lofad, hun aflar þier Þolinmædi. 3. Kiærleikann, med honum gloir þu gott Mannuganum i Hlijdni vid Gud þinn, hann ablar þier Lofstijrs a þijnum Upprisu Degi.

Priaa Mannkosti stunda þu jafnann ad geyma. 1. Trygd Hiartans. 2. Sannleika Munnsins. 3. Jdiu Handaña, þvi Otrwtt Hiarta leidir Snoru Oluckunnar yfir sinn Herra, lijginn Madur deydir sijna eigiñ Saalu, Sap. 1. Og mælugur Muñ ur mun alldrei Giæfu stiira a Jordunni; Eñ Jdiulausar latar Hendur, leggia Hægindi og Dijnu undir Andskotann i Mannsins eigiñ Limum.

A Þridia Degi eptir sijna Pijnu, reis Herrann Christur af Dauda. Þvi sie og þess Þridie Dagur i Vikunni (sem og allir

